dætur hans og sonakonur kveinuðu í herbergjum sínum, þá þær mintust hinna mörgu og hraustu manna, er nú lágu fallnir og höfðu látið líf sitt fyrir *Argverjum*. Sendimær *Seifs* gekk að *Príamusi* og nam þar staðar; hún talaði til hans í lágum hljóðum, en hann skalf allur: „Vertu óhræddur, *Príamus Dardansniðji*, og æðrast ekki leingur. Eg kem ekki híngað til að boða þèr ílt, heldur er eg komin í góðum hug; því eg flyt þèr orðsendíngu *Seifs;* hann lætur sèr ant um þig og aumkvar þig, þó hann sè þèr fjarstaddur. Hinn ólympski guð segir þèr að leysa út hinn ágæta *Hektor*, og færa *Akkilli* þær gjafir, er honum sè hugbót í. Þú skalt vera einn saman, og skal eingi *Trójumanna* fara með þèr; fylgja má þèr einhverr gamall kallari til að stýra múlunum og hjólvagninum og flytja aptur til borgarinnar hinn dauða mann, er hinn ágæti *Akkilles* vó. Ekki skaltu kvíða dauða þínum, eða æðrast. Slíkur leiðtogi skal fylgja þèr: *Argusbani* skal fylgja þèr, þar til er hann kemur, þángað sem *Akkilles* er. En er hann hefir leidt þig inn í búð *Akkils*, þá mun *Akkilles* ekki drepa þig; nei, hann mun banna hverjum manni að gera það; því hvorki er hann óvitur nè athugalaus, og eingi níðíngur, heldur mun hann mjög innvirðulega hlífa þeim manni, er leitar líknar hans“. Að því mæltu fór hin fóthvata *Íris* burt.

*Príamus* bað nú sonu sína að búa einn hjólbúinn múlvagn, og binda laup ofan á hann. Sjálfur

gekk hann ofan í hinn ilmanda geymslusal; hann var af sedrusviði og háræfraður; voru þar geymdar inni margar gersemar. Hann kallaði á *Heköbu* konu sína híngað, og mælti: „Heillin mín, mèr kom ólympsk orðsendíng frá *Seifi,* að eg skuli fara til skipa *Akkea* og leysa út minn kæra son, og færa *Akkilli* þær gjafir, sem honum sè hugbót í. Ger nú svo vel, seg mèr, hvað sýnist þèr ráðlegt? Hugur minn og hjarta hvetur mig mjög ákaflega að fara þángað til skipanna inn í hinar víðu herbúðir *Akkea*". Þannig mælti hann, en konan hljóðaði, og svaraði honum: „Æ mig vesala, hvað er nú orðið af vitsmunum þínum, þeim er fyrrum fór orð af bæði meðal útlenzkra manna, og svo hjá þeim, er þú átt yfir að ráða? Hví viltu fara aleinn til skipa *Akkea,* og koma í augsýn þess manns, er drepið hefir svo marga og svo hrausta sonu þína? Þú hefir sannarlega járnhjarta. Því ef hann nær þèr og lítur þig augum, sá hinn blóðfíkni og ótrúi maður, þá mun hann ekki kenna í brjósti um þig, og einskis svífast við þig. Látum okkur nú sitja hèr og kveina í höllinni, lángt í burt frá þeim manni. En hin máttuga skapanorn mun hafa ætlað *Hektori* það, þá hún spann lífsþráð hans við fæðínguna, er eg ól hann, að hann skyldi seðja fótfráa hunda fjarri foreldrum sínum hjá ofríkismanninum; æ, eg vildi eg mætti hánga á lifrinni inni í honum og eta hana! Það væri mátuleg hefnd fyrir son minn. Því ekki tèði sonur minn sig sem ragmenni, þegar *Akkilles*

drap hann, heldur stóð hann sem vörn fyrir *Trójumönnum* og hinum skautfögru *Trójukonum,* og hugði hvorki á flótta nè undanhald". Hinn goðumlíki, aldraði *Príamus* svaraði henni: „Haltu mèr ekki, fyrst eg vil fara. Vertu mèr ekki sjálf sem óheilla-spáfugl í húsum mínum. Þú fær ekki talið mèr hughvarf. Því ef einhverr jarðneskra manna hefði ráðið mèr þetta, svo sem annaðhvort spáfararmenn, brennifórnarspámenn eða iðrablótsmenn, þá mundi eg kalla það markleysu, og síður marka þann mann eptir, en áður. En nú fer eg, því eg heyrði sjálfur, að það var einhverr guð, og eg horfði beint framan í hann; þetta skulu því ekki verða hègómaorð. En ef fyrir mèr á að liggja að deya hjá skipum enna eirbrynjuðu *Akkea,* þá er eg þess fús; því mig gildir einu, þó *Akkilles* drepi mig þegar í stað, þá eg hefi umfaðmað son minn og svalað harmfýsi minni". Að því mæltu lauk hann upp hinum fögru kistu-lokum, tók þar upp úr 12 mjög fagra möttla, tólf einbrotnar yfirhafnir, jafnmarga dúka, jafnmargar fagrar skikkjur, og auk þessa jafnmarga kyrtla. Þá vó hann gullið, og tók ekki minna en tíu vættir með sèr. Hann tók og upp tvo ljómandi þrífætínga, fjóra katla, og mjög fagurt drykkjarker, er þrakneskir menn höfðu gefið honum eitt sinn, þá hann fór sendiför til þeirra; var það mikil gersemi, og þó hlífðist ekki öldúngurinn við að taka það úr herbergjum sínum, því hann vildi fyrir alla muni leysa út hinn kæra son sinn. Þá ávítti *Príamus*

*Trójumenn* með smánarlegum orðum, og rak þá alla út úr svölunum: „Burt, burt, svívirðíngarnar, afhrökin! Er þá ekki nóg harmakvein hjá yður heima, að þèr þurfið að koma híngað til að ónáða mig? Eða nægir yður það ekki, að *Seifur Kronusson* hefir sent mèr það mótlæti, að missa hraustasta son minn? Þèr munuð sjálfir fá að kenna á því; því *Akkear* munu nú eiga miklu hægra með að drepa yður niður, síðan hann er fallinn. En eg vildi, að eg væri geinginn inn í *Hadesar*-höll, áður en eg horfi á það með augum mínum, að borgin sè rænd og rupluð". Að því mæltu rak hann *Trójumenn* burtu, og fóru þeir þá út undan öldúngnum, því hann rak hart á eptir. Þá kallaði *Príamus* til sona sinna, og átaldi þá *Helenus* og *Paris* og hinn ágæta *Agapon, Pammon* og *Antífónus* og hinn rómsterka *Polítes, Deífobus* og *Hippopóus* og hinn vaska *Díus*. Hinn gamli maður kallaði til þessara níu sona sinna og bauð þeim: „Flýtið yður, ónytjurnar, svívirðurnar! Eg vildi óska, að þèr hefðuð verið drepnir allir saman hjá hinum fljótu skipum í stað *Hektors*. Mikill ólánsmaður er eg! Eg átti hina hraustustu sonu, sem til voru í hinu víða *Trójulandi*, og nú er eingi þeirra eptir, að kalla má. Eg átti hinn goðumlíka *Mestor* og hinn kerruvíga *Tróílus*, og *Hektor*, sem var guð meðal manna, því hann sýndist ekki vera sonur mennskra manna, heldur einhvers af goðunum. Þessum sonum mínum hefir *Ares* glatað, en verstu afhrökin eru eptir, lygarar og

dansleikarar, frakkastir í því, að stíga dans og hripsa lömb og kiðlínga innan lands. Búið þèr mèr vagn sem skjótast, og látið alt þetta upp í, svo eg geti farið leiðar minnar". Þannig mælti hann, en þeir urðu smeykir við ávítur föður síns, og báru út einn hjólbúinn múlvagn, fagran og nýsmíðaðan; þar bundu þeir laupinn ofan á. Þeir tóku eitt múlok ofan af nagla; það var af bússviði, búklað, með sterkum taumhríngum; þeir báru út níu álna lángt okband með okinu, og lögðu okbandið varlega á hina vel telgdu vagnstaung, fremst framan á enda hennar, hleyptu svo hríngnum upp á stángarnaglann, þríbrugðu síðan okbandinu um okbúklið beggja vegna, þar eptir bundu þeir bandið fast og smeygðu endanum undir. Síðan báru þeir út úr geymslusalnum ógrynni fjár, útlausnarfè *Hektors,* og hlóðu því á hinn fagurskafna vagn; beittu svo fyrir hinum hófasterku, togþolnu múlum, er *Mýsar* höfðu eitt sinn gefið *Príamusi,* og var það allfögur gjöf. En handa *Príamusi* leiddu þeir undir ok hesta þá, er hinn gamli maður átti sjálfur og ól á fagursköfnum stalli; en kallarinn og *Príamus,* báðir ráðvitrir menn, beittu þeim hestum fyrir í hinni háfu höll. Þá kom þar *Hekaba* til þeirra með sorgmæddum hug; hún hèlt í hægri hendi sèr á gullskál með ljúffeingu víni í, handa þeim til að dreypa dreypifórn, áður þeir færi af stað. Hún nam staðar fyrir framan kerruna, tók til orða og mælti: „Tak við, dreyp föður *Seifi,* og heit á hann, að þú komist aptur

frá fjandmönnunum, fyrst þig endilega fýsir að fara til skipanna, enn þótt eg vildi, að þú gerðir það ekki. Heyr, heit nú á *Kronusson* svartskýaguð, *Ída*-fjalls-goð, sem horfir ofan yfir alt *Trójuland;* bið hann senda til hægri handar þèr hinn skjóta sendiboða sinn, spáfugl þann, er honum er kærstur allra fugla, og allra fugla er sterkastur, að þú sjáir hann sjálfur með augum þínum og farir í hans trausti til skipa hinna hestfimu *Danáa.* En sendi ekki hinn víðskygni *Seifur* þèr sendiboða sinn, þá skal eg ekki ráða þèr til að fara til skipa *Argverja,* þó þú sèrt þess allfús". Hinn goðumlíki *Príamus* svaraði henni og mælti: „Gegna skal eg þessum þínum tilmælum, kona; því það er holt, að fórna höndum til *Seifs* og biðja hann miskunar". Að því mæltu bauð hinn gamli maður einni þjónustumey, sem var ráðskonan, að hella tæru vatni á hendur sèr. Þjónustumærin gekk þá til hans og hèlt sínu í hvorri hendi, á laugarkeri og vatnskönnu. En er hann hafði þvegið sèr, tók hann við skálinni af konu sinni, gekk síðan fram í miðjan hallargarðinn og baðst fyrir; hann leit til himins, dreypti víninu, og tók svo til orða: „Faðir *Seifur,* þú sem ríkir á *Ída*-fjalli, þú vegsamlegasti og mesti! Lát mèr auðið verða náðar og miskunar, þá eg kem til búðar *Akkils;* send til hægri handar mèr hinn skjóta sendiboða þinn, fugl þann, er þèr er kærstur allra fugla og allra fugla er sterkastur, svo eg sjái hann sjálfur með augum mínum, og fari í hans trausti

til skipa enna hestfimu *Danáa*". Þannig baðst hann fyrir, en hinn ráðvísi *Seifur* heyrði bæn hans, og sendi af bragði örn einn, sem er hinn áreiðanlegasti allra spáfugla, dökkgráan veiðiörn, sem og er kallaður fiskiörn. Svo víð sem vel læst og vel feld hurð er á háræfruðu húsi auðugs manns: svo lángir voru vængir arnarins beggja vegna; sýndist þeim hann fljúga hægra megin yfir borginni. En er þau sáu hann, urðu þau glöð, og lifnaði hugur í brjóstum allra.

Hinn aldraði maður steig nú í skyndi upp á kerru sína, og ók út úr fordyrinu og hinum ómanda svölugángi. Múlarnir drógu hinn ferhjólaða vagn á undan, og keyrði þá hinn vitri *Ídeus;* á eptir þeim fóru hestarnir; þá keyrði gamli *Príamus* hart með svipu gegnum borgina; fylgdust með honum allir vinir hans, og hörmuðu þeir stórlega, svo sem geingi hann út í dauðann. En er þeir voru komnir ofan úr borginni og ofan á völlinn, þá hurfu þeir aptur, synir hans og dætramenn, til *Ilíonsborgar.*

Hinn víðskygni *Seifur* varð brátt varr þeirra *Príamuss,* þá er þeir komu fram á völlinn; og er hann sá það, aumkaðist hann yfir hinn gamla mann, og mælti þegar til *Hermess,* sonar síns: „Með því þèr er kærast, *Hermes,* að samlaga þig manni, og bænheyrir gjarna, þann er þú vilt, þá far þú fljótt og fylg *Príamusi* til enna holu skipa *Akkea,* á þann hátt að eingi sjái hann og eingi *Danáa* verði varr við, fyrr en hann kemur til *Peleifssonar*". Þannig

mælti hann, en hinn hvatfæri *Argusbani* gerði, sem hann bauð. Hann batt þegar undir fætur sèr fagra, himneska gullsóla, er báru hann, sem vindur blèsi, yfir láð og lög. Hann tók í hönd sèr sprota þann, er hann stíngur með svefnþorn þeim mönnum, er hann vill, og vekur þá, er sofa. Þann sprota hafði hinn sterki *Argusbani* í hendi sèr, og rann þegar af stað. Hann kom skjótt til *Trójulands* og *Hellusunds;* gekk svo af stað, og var þá líkur úngum sveini konúngbornum, sem nýsprottin er grön og er á sínu fegursta æskuskeiði. Nú sem þeir *Príamus* voru komnir fram hjá *Ílus*-haugi, þá áðu þeir múlunum og hestunum við fljótið og lètu þá drekka, því þá var farið að rökkva. Þá varð kallarinn varr við *Hermes,* og sá, að hann var kominn nærri þeim; tók hann þá til orða og mælti til *Príamuss:* „Hygg að, *Dardansniðji,* hèr er úr vöndu að ráða. Eg sè mann; er eg hræddur um, að hann brátt fyrirkomi okkur báðum. Heyr, látum oss flýa á kerrunni, eða þá gaungum fyrir knè hans og biðjum hann miskunar". Svo mælti *Ídeus,* en hinn gamli maður varð felmtraður og ákaflega hræddur, reistu hárin sig á limum hans, og hann stóð frá sèr numinn. Þá gekk *Hagvaldur* til hins gamla manns, tók í hönd honum, spurði hann og mælti: „Hví ekur þú svo, faðir, hestum og múlum á náttarþeli, þegar aðrir menn sofa? Hræðist þú þá ekki hina hugmóðsfullu *Akkea,* sem hèr eru í nánd, óvini þína og fjandmenn? Ef einhverr þeirra sæi þig

flytja svo mikla fjármuni á hinni svipulu, svörtu nótt, hversu mundi þèr þá verða um gefið? Hvorki ertú sjálfur úngur, og svo er sá, sem hèr fylgir þèr, gamall maður, og er hvorugur fær um að verjast þeim manni, sem veitir árás að fyrra bragði. En eg skal ekkert ílt gera þèr, og heldur mun eg verja þig fyrir öðrum, því mèr sýnist þú líkur ástsamlegum föður". Hinn goðumlíki öldúngur *Príamus* svaraði honum: „Svo mun vera, sem þú segir, sonur sæll. En einhverr guðanna heldur enn hendi sinni yfir mèr, þar sem hann hefir mèr til heilla sent í veg fyrir mig þann samferðamann, sem er svo afbragðslegur, sem þú, að vexti og vænleik og vitsmunum. Sælir eru þeir foreldrar, er þú ert af kominn". Hinn hvatfæri *Argusbani* svaraði honum: „Alt er þetta satt, sem þú segir, gamli maður. En seg mèr og inn með sannindum: ætlar þú að flytja hèðan svo marga góða gripi eitthvað til útlanda, til þess þú haldir þó þessu að minnsta kosti órændu? Eða eruð þèr allir orðnir svo hræddir, að þèr ætlið að flytja yður burt úr enni helgu *Ilíonsborg?* Og væri það von, þar sem fallinn er einhverr hinn hraustasti maður, sonur þinn, sem ekkert skorti á við *Akkea* í orustu". Hinn goðumlíki öldúngur *Príamus* svaraði honum: „Hverr ertu, góður maður, og af hvaða foreldrum kominn, er þú talar svo vel um fall hins ógæfusama sonar míns?" Hinn hvatfæri *Argusbani* svaraði honum: „Þú freistar mín, gamli maður, og spyr um hinn ágæta *Hektor*. Eg sá hann marg-

opt með eigin augum í hinum mannsæma bardaga, svo og þá hann keyrði *Argverja* niður til skipanna, drap þá og hjó niður með hvössu eirvopni; stóðum vèr þá og undruðumst, því *Akkilles* vildi ekki lofa oss að berjast, sökum þess að hann var þá reiður *Atreifssyni*. Eg em hersveinn *Akkils*, og kom híngað á sama skipi, sem hann. Em eg einn af *Myrmídónum;* faðir minn er *Polyktor;* hann er auðugur maður, og gamall maður, svo nokkuð sem þú ert. Hann á sex sonu, og em eg hinn sjöundi. Vèr bræður köstuðum hlutum um, og hlaut eg að fara með í för þessa híngað. En mèr varð geingið híngað upp á völlinn frá skipunum, því á morgun ætla hinir snareygu *Akkear* að hefja orustu hjá borginni; tekur þeim nú að leiðast setan, og ekki geta höfðíngjar þeirra haldið þeim; svo eru þeir ákafir í styrjöldina". Hinn goðumlíki öldúngur *Príamus* svaraði honum: „Ef þú ert hersveinn *Akkils Peleifssonar,* þá ger svo vel og seg mèr alt af lètta: er sonur minn enn þá hjá skipunum, eða hefir *Akkilles* höggvið hann í smátt og kastað honum fyrir hunda sína?" Hinn hvatfæri *Argusbani* svaraði honum: „Gamli maður, ekki hafa hundar eða hræfuglar etið hann enn þá, heldur liggur hann enn, eins og hann var, hjá búðinni við skip *Akkils;* er þetta hinn tólfti dagur, sem hann liggur þar, og fúnar þó ekki hold hans, og ekki eta hann maðkar, sem þó eru vanir að eta vopnbitna menn. Þegar hinn himneski morgunroði kemur í ljós, dregur *Akkilles* hann

að sönnu óþyrmilega í kríng um haug vinar síns, en fær þó ekki afskræmt hann. Þèr mundi gefa á að líta, ef þú kæmir sjálfur til hans, hversu hann liggur, sem væri hann glænýr; alt blóð er af honum þvegið, og hann er hvergi óhreinn; öll sár, þeim er hann var særður, eru saman runnin, því margir menn báru vopn á hann. Þannig annast hinir sælu guðir hinn góða son þinn, þó hann liggi lík, því hann er þeim mjög ástfólginn". Svo mælti *Hermes*, en hinn gamli maður gladdist, og svaraði honum: „Gott er fyrir mann, sonur sæll, að greiða hinum ódauðlegu goðum skyldugjafir sínar. Því aldrei gleymdi sonur minn, sem eg ávalt sakna, guðum þeim, er á *Ólympi* búa. Því hafa þeir munað honum það, jafnvel eptir það hann var dauður. En heyr nú, þigg þessa fögru skál af mèr, og tak við mèr til trausts, og fylg mèr með aðstoð guðanna, uns eg kem til búðar *Peleifssonar*". Hinn hvatfæri *Argusbani* svaraði honum: „Ekki muntu fá mig til þess; þú freistar mín nú, gamli maður, þèr ýngra manns, er þú biður mig að þiggja gjafir af þèr án vitundar *Akkils;* óttast eg hann, og vil fyrir hvern mun forðast að hafa nokkuð af honum, svo eg hafi ekkert ílt þar af síðar meir. En eg skal gjarna fara með þèr á fljótu skipi til hins fræga *Argverjalands,* eða fylgja þèr þángað landveg, og mun þá eingi ráðast á þig fyrir þá skuld, að honum þyki lítið koma til fylgdarmanns þíns".

Að því mæltu stökk *Hagvaldur* skyndilega upp

á kerruna, greip svipuna og taumana, og blès miklum móði í brjóst hestunum og múlunum. En er þeir komu að skipagarðinum og díkinu, voru vökumenn nýgeingnir til náttverðar; stakk hinn hvatfæri *Argusbani* þeim öllum svefnþorn, opnaði þegar hliðin og skaut frá slagbröndunum. Þar fór hann inn með *Príamus* og með hinar fögru gjafir, er á vagninum voru. Þá komu þeir að hinni háfu búð *Peleifssonar;* þá búð höfðu *Myrmídónar* gert konúnginum af höggnum furutrjám, en þakt hana með loðnum reyr, er þeir skáru í mýri einni. Í kríng um búðina höfðu þeir gert konúnginum mikinn forgarð af þèttum staurum; fyrir hurðinni var einn furu-slagbrandur; voru þrír *Akkear* vanir að hrinda þeim slagbrandi fyrir, og þrír *Akkear* skutu hinni stóru loku frá hurðunum, en þeim slagbrandi hratt *Akkilles* fyrir einn. *Hermes* hagsældaguð skaut þá frá lokunni fyrir hinn aldraða mann, og ók inn með hinar fögru gjafir, er ætlaðar voru hinum fóthvata *Peleifssyni.* Síðan steig hann af kerrunni til jarðar, og mælti: „Gamli maður, eg sem híngað er kominn, em *Hermes,* ódauðlegur guð; faðir minn sendi mig til fylgdar við þig. Nú mun eg fara aptur, og ekki gánga inn fyrir augu *Akkils,* því það væri óviðurkvæmilegt fyrir ódauðlegan guð, að kveðja dauðlega menn svo bersýnilega. En þú skalt gánga inn og taka um knè *Peleifssonar,* og svo þú hrærir hug hans, skaltu biðja hann fyrir sakir föður hans og hinnar hárprúðu móður hans og fyrir sakir sonar hans“. Að

því mæltu fór *Hermes* burt, og upp til hins háfa *Ólymps*.

*Príamus* varp sèr ofan úr kerrunni til jarðar. Hann lèt *Ídeus* vera þar eptir, og var hann þar kyrr og gáði að hestunum og múlunum, en öldúngurinn gekk rakleiðis að húsi því, er *Akkilles* sat í, ástvinur *Seifs*, og hitti hann *Akkilles* inni. Fèlagar hans sátu sèr, en tveir einir menn voru hjá *Akkilli* og þjónuðu honum, kappinn *Átómedon* og *Alkímus*, afspríngur *Aresar;* var *Akkilles* nýhættur snæðíngi, að eta og drekka, og var borðið enn ekki upp tekið. Hinn mikli *Príamus* gekk inn, svo þeir urðu ei varir við; hann gekk til *Akkils,* tók höndum sínum um knè hans, og kysti þær hinar óttalegu manndrápshendurnar, er drepið höfðu marga sonu hans. Svo sem þá er mann nokkurn hendir sá stórglæpur, að hann hefir vegið mann í föðurlandi sínu, og fer því í land annara manna til einhvers auðugs manns, og verður öllum bilt við, er á hann horfa: svo varð *Akkilli* bilt við, er hann leit hinn goðumlíka *Príamus*. Hinir urðu og forviða, og leit hverr upp á annan. *Príamus* bað þá *Akkilles,* og tók svo til orða: „Minnstu föður þíns, goðumlíki *Akkilles;* hann er á aldur við mig, hrumur af elli og kominn af fótum fram. Vera má, að einhverjir nágrannar hans, sem í kríng um hann eru, ángri hann nú, án þess neinn sè til að verja hann fyrir óhamíngju og tjóni; en hann gleðst í hjarta sínu, þegar hann frèttir, að þú ert á lífi, og væntir þess á hverjum degi, að hann

fái að sjá sinn kæra son heim aptur kominn frá *Trójulandi.* En eg, vesalstur allra manna, eg átti þá sonu, sem voru manna hraustastir í öllu *Trójulandi,* og nú er eingi, að kalla, eptir af þeim. Þegar synir *Akkea* komu, átti eg fimtíu sonu; var ein móðir að nítján þeirra, en hina átti eg við ambáttum í höll minni. Hefir hinn óðláti *Ares* flestum þeirra á knè komið. En þann, sem frábærastur var allra sona minna, þann, sem varði borgina og borgarmennina, hann *Hektor,* hann drapstú nýlega, þá hann var að halda vörn uppi fyrir föðurland sitt. Hans vegna kem eg nú til skipa *Akkea,* til að fá útlausn fyrir hann hjá þèr, og hefi með mèr ógrynni útlausnarfjár. Heyr, *Akkilles,* óttast guðina, sjá aumur á mèr, og minnst föður þíns; og em eg þó enn aumkunarverðari, því eg hefi haft þá raun, sem eingi annar jarðneskur maður hefir haft, að bera hendur sonarbana míns upp að munni mínum“. Svo mælti *Príamus,* og vakti hjá honum harmfýsi sökum föður hans. *Akkilles* tók um hönd öldúngsins og þokaði honum hægt frá sèr. Báðir áttu þeir nú böls að minnast: *Príamus* mintist *Víga-Hektors;* hann kraup frammi fyrir fótum *Akkils* og kveinaði hástöfum; en *Akkilles* harmaði ýmist föður sinn, ýmist *Patróklus;* heyrðust nú andvörp þeirra um alla búðina. En er hinn ágæti *Akkilles* hafði svalað sèr á harminum, þá reis hann þegar upp af hástólnum, tók í hönd öldúngsins og reisti hann á fætur; kendi hann í brjósti um

hans gráa höfuð og gráa skegg. Hann talaði til hans skjótum orðum og mælti: „Þú vesall maður, sannlega hefir þú borið margar raunir á hjarta þínu. Hví áræddir þú að fara aleinn til skipa *Akkea,* og koma fyrir augu þess manns, er drepið hefir svo marga og svo hrausta sonu þína? Þú hefir sannarlega járnhjarta. Heyr nú, sezt nú í hásæti. Þó við sèum í sárum hug, þá látum samt harmana liggja niðri í brjóstinu; eingu er maður nær að heldur, þó hann kveini fagnaðarlaus. Því guðirnir hafa skapað vesölum mönnum það hlutfall, að þeir skyldu lifa við harma, en sjálfir eru guðirnir sorgalausir. Á hallargólfi *Seifs* standa tvö ker; í þeim kerum eru gjafir þær, er guðirnir veita; í öðru kerinu er hið illa, en í hinu hið góða. Veiti hinn þrumuglaði *Seifur* einhverjum manni beggja blands af kerrum þessum, þá ratar sá maður ýmist í gæfu, ýmist í ógæfu; en þeim sem hann úthlutar hörmúngunum, þann mann gerir hann svívirðilegan; þann mann eltir sár sultur um víða veröld; hann ráfar híngað og þángað, og er hvorki virtur af guðum, nè mönnum. Þannig veittu guðirnir *Peleifi* fagrar gjafir alt í frá fæðíngu hans; því hann hafði velsæld og auðlegð um fram alla menn, og var konúngur yfir *Myrmídónum,* og þó hann væri dauðlegur maður, gáfu guðirnir honum gyðju fyrir konu. En ofan á þessa gæfu bætti guð þeirri ógæfu, að hann átti einga sonu, er komið gætu til ríkis eptir hann. Sá eini sonurinn, sem hann átti,

er alt of bráðfeigur. Ekki mun eg hjúkra honum í elli sinni, með því eg sit hèr í *Trójulandi,* mjög lángt frá föðurlandi mínu, og ángra þig og börn þín. Heyrt höfum vèr og, gamli maður, að þú hafir verið lánsmaður fyrrum; er það mál manna, öldúngur, að þú hafir að auðlegð og sonastyrk verið öllum mönnum fremri, þeim er búa í því takmarki, *Lesbey* að norðan, aðsetri *Makars-Frýgalandi* að ofan og hinu endalausa *Hellusundi.* En síðan himinbúarnir lètu þèr þenna ófögnuð að hendi bera, sem nú er, þá hefir þèr aldrei orðið í milli bardaga og manndrápa, er verið hafa kríng um borgina. Berðu þig vel, og kveina ekki óaflátlega í hjarta þínu, því þú verður eingu að nær, þó þú harmir þinn góða son; ekki fær þú reist hann upp aptur; fyrr muntu rata í aðra raun". Hinn goðumlíki öldúngur *Príamus* svaraði honum: „Bjóð mèr ekki, fóstri *Seifs,* að setjast í hásæti, meðan *Hektor* liggur í búðinni ógrafinn. Lát hann lausan sem fyrst, svo eg sjái hann með augum mínum, en tak við hinu mikla útlausnargjaldi, er eg hefi að færa þèr. Eg óska, að þú njótir þess vel, og komist heim í föðurland þitt, þegar þú fyrst hefir gefið mèr heimleyfi". Hinn fóthvati *Akkilles* leit til hans með reiðisvip og mælti: „Komdu mèr ekki aptur til, gamli maður; eg hefi sjálfur í hyggju, að gefa þèr *Hektor* lausan, því móðir mín, sem ól mig, dóttir sjáfaröldúngsins, kom til mín með orðsendíng frá *Seifi,* og svo skil eg það

af viti mínu, *Príamus,* að einhverr guðanna hefir fylgt þèr til hinna fljótu skipa *Akkea;* það bregzt mèr ekki. Því eingi maður, og ekki þó á bezta aldri væri, mundi áræða að fara inn í herbúðirnar; mundi hann ekki komast, svo vökumennirnir yrðu ekki varir við, og ekki eiga hægt með að skjóta slagbröndunum frá hurðum vorum. Ger því ekki skap mitt í hörmum mínum uppvægara, en það er, svo eg ekki níðist á þèr, gamli maður, hèr í búð minni, þó þú hafir flúið á náðir mínar, og brjóti svo á móti orðsendíngu *Seifs*". Þannig mælti *Akkilles,* en öldúngurinn varð hræddur, og gegndi orðum hans. En *Peleifsson* stökk, eins og ljón, út úr búðinni; hann var ekki einn, honum fylgdu tveir sveinar, kappinn *Átómedon* og *Alkímus;* þá virði *Akkilles* mest allra fèlaga sinna, næst hinum dána *Patróklus.* Þeir leystu hestana og múlana undan okunum, leiddu hinn hljóðmikla kallara öldúngsins inn í búðina, og lètu hann setjast þar á stól; síðan tóku þeir upp úr hinum fagurskafna vagni hið stórmikla útlausnarfè fyrir lík *Hektors,* en lètu vera eptir tvær skikkjur og einn vel ofinn kyrtil, til þess hann skilaði heim aptur líkinu í umbúðum. Þá bauð hann þernum að bera líkið afsíðis, svo *Príamus* sæi ekki son sinn, og þvo það og smyrja alt í kríng; ella hefði verið hætt við, að *Príamus,* ef hann hefði sèð son sinn, mundi ekki hafa stilt reiði sína í hinu sorgbitna hjarta sínu, og hugur *Akkils* orðið uppvægur, og hann svo drepið *Príamus* og brotið móti orðsendíngu *Seifs.* En er

þernurnar höfðu þvegið líkið og smurt með viðsmjöri, þá sveipuðu þær það í fagri skikkju og kyrtli. *Akkilles* hóf líkið sjálfur upp og lagði það á líkbekk, en fèlagar hans hófu það upp á hinn fagurskafna vagn. Því næst hljóðaði *Akkilles* upp, og nefndi á nafn hinn kæra vin sinn: „Reiðst mèr ekki *Patróklus,* þó þú frèttir til *Hadesar*-heims, að eg hafi látið lausan hinn ágæta *Hektor,* og feingið hann föður hans; því *Príamus* hefir gefið mèr ekki ósæmilegar gjafir, og skal eg skipta þèr af þeim svo miklum hlut, sem þèr ber“.

Að því mæltu gekk hinn ágæti *Akkilles* aptur inn í búðina, og settist á hinn gersemlega legubekk, er hann hafði áður á setið, við hinn búðarvegginn, og mælti til *Príamuss:* „Nú er þèr laus gefinn sonur þinn, gamli maður, svo sem þú mælist til; hann er nú lagður á líkbekk, og muntu á morgun, þegar er birtir, sjá hann, er þú flytur hann heim. En nú skulum við hyggja á náttverð. Því matar neytti einnig hin hárprúða *Níóba,* þó hún misti tólf börn í húsi sínu, sex dætur og sex frumvaxta sonu; drap *Appollon,* er reiður var *Níóbu,* sonu hennar með silfurboga sínum, en *Artemis* örumglöð dæturnar, fyrir þá sök að *Níóba* jafnaði sèr við hina kinnfögru *Letó,* kvað hana ekki fædt hafa nema tvö börn, en hún kvaðst átt hafa mörg. En þessi bæði börnin, þó þau væri ekki nema tvö, drápu öll mörgu börnin. Börn *Níóbu* lágu níu daga í blóði sínu, og varð eingi til að jarða þau, því

*Kronusson* gerði mennina að steinum; en á tíunda degi jörðuðu himnaguðirnir þau. En er *Nióba* var þreytt orðin af að út hella tárum, þá hugði hún á það, að neyta matarins; en nú er hún uppi á eyðifjöllum, og stendur á einhverjum hömrum á *Sípýlus*-fjalli, þar sem mælt er að sèu leguból landvætta þeirra, er lèku sèr forðum í kríng um *Akkelóus*; þar stendur hún í steinslíki og meltir með sèr harma þá, er guðirnir sendu henni. Heyr nú, ágæti gamli maður, látum okkur einnig hyggja á matarnautn. Þú getur síðar meir grátið þinn kæra son, þegar þú hefir flutt hann til *Ilíonsborgar*, því mörg tár muntu yfir honum fella“. Að því mæltu spratt hinn skjóti *Akkilles* upp og slátraði mjallhvítum sauð, en fèlagar hans flógu sauðinn, og gerðu til, svo sem siður var til; þeir brytjuðu limina kunnáttulega, og stúngu öllum stykkjunum upp á teina, steiktu svo gætilega og tóku öll stykkin af teinunum. *Átómedon* tók brauð, sem var í fallegum körfum, og skamtaði það á borðinu, en *Akkilles* skamtaði kjötið, Rèttu þeir nú hendur sínar til hins tilreidda matar, er á borð var borinn. En er þeir höfðu sadt lyst sína á mat og drykk, þá undraðist *Príamus Dardansniðji*, hve mikill vexti og hve fríður maður *Akkilles* var; því hann var líkur goðunum í sjón. En *Akkilles* undraðist *Príamus Dardansniðja*, þá hann virti fyrir sèr hinn góða yfirlit hans, og heyrði orðræðu hans. En er hvorr hafði virt annan fyrir sèr, sem hann

lysti, tók öldúngurinn, hinn goðumlíki *Príamus,* svo fyrri til máls við *Akkilles:* „Lát mig nú, fóstri *Seifs,* fara sem fyrst að hátta, svo við, geingnir til hvílu, endurnærumst af værum svefni; því enn hafa ekki augu mín blundað undir hvörmum mèr, síðan sonur minn lèt líf sitt fyrir höndum þínum, heldur veltist eg um í saurnum í hallarforgarðinum, og andvarpa ávalt og byrgi niðri í mèr ótal harma. Nú fyrst hefi eg neytt matar og rent skæru víni um kverkar mèr, en fyrr hefi eg ekki notið neins". Svo mælti *Príamus,* en *Akkilles* bauð fèlögum sínum og ambáttunum að setja rúmstæði í svalirnar, láta þar í fagrar ábreiður af purpura og breiða yfir dúka, og leggja þar ofan á loðkápur til að fara í. Þær geingu út úr stofunni og hèldu á blysi, og bjuggu þegar af bragði upp tvær rekkjur. Þá mælti hinn fóthvati *Akkilles* í gamni við *Príamus:* „Þú verður nú, góði, gamli maður, að hátta utan búðar. Því verið getur, að híngað komi einhverr af höfðíngjum *Akkea,* því þeir eru jafnan vanir að sitja hjá mèr á ráðstefnu, svo sem siður er til. Færi nú svo, að einhverr þeirra sæi þig um hina svipulu, dimmu nótt, þá mundi hann þegar segja *Agamemnon* herkonúngi frá, og mætti þá verða, að frestaðist útlausn *Hektors.* En heyr nú, seg mèr og inn með sannindum, í hvað marga daga þú vilt gera útför hins ágæta *Hektors,* til þess eg sitji kyrr á meðan sjálfur, og haldi hernum hèr hjá mèr". Öldúngurinn, hinn goðumlíki *Príamus,* svaraði hon-

um: „Með því þú vilt leyfa mèr að gera útför hins ágæta *Hektors*, þá væri mèr stór þökk á, *Akkilles*, ef þú vildir haga svo til. Þú veizt, að vèr erum inni hneptir í borginni, en lángt að sækja við upp á fjall, og *Trójumenn* mjög hræddir. Gjarna vildum vèr harma hann níu daga í höllinni, jarða hann á tíunda degi og halda fólkinu veizlu, en verpa haug eptir hann á ellefta degi. Þá getum vèr barizt á tólfta degi, ef svo verður að vera“. Hinn fóthvati *Akkilles* svaraði honum: „Þetta skal og vera, svo sem þú mælist til, gamli *Príamus*. Eg skal fresta ófriðnum svo lángan tíma, sem þú til tekur“. Að því mæltu tók *Akkilles* um hægri handar únlið öldúngsins, svo hann gæti verið óhræddur. Þeir hvíldu þar nú, hinir ráðvitru menn, kallarinn og *Príamus*, í framhúsinu í búðinni; en *Akkilles* svaf innst í hinni vel smíðuðu búð, og þar hvíldi hjá honum hin kinnfagra *Brísesdóttir*. Nú sváfu allir guðir og hermenn af um nóttina, sigraðir mjúkum svefni, nema *Hermes*, hinn hagvaldi guð, hann festi aldrei blund, því hann var að velkja í huga sèr, hversu hann mætti koma *Príamus* konúngi heim aptur frá skipunum, svo hinir helgu hliðverðir yrði ei varir við. Hann nam nú staðar uppi yfir höfði *Príamuss*, og mælti til hans: „Þú hirðir þá, gamli maður, alls ekkert um háskann, er þú sefur svo enn meðal óvina þinna, eptir það að *Akkilles* hefir gefið þèr heimleyfi. Þú hefir nú leyst út son þinn og goldið

mikið fè; en þrefalt meiri útlausn munu synir þínir, sem eptir eru í borginni, verða að greiða þèr til lífgjafar, ef *Agamemnon Atreifsson* og allir *Akkear* verða þess varir, að þú ert hèr". Svo mælti *Hermes,* en hinn gamli maður varð hræddur, og vakti kallarann. *Hermes* beitti hestunum og múlunum fyrir, og ók sjálfur í skyndíngu gegnum herbúðirnar, án þess neinn yrði varr við. En er þeir komu að vaði hins straumfagra fljóts, fór *Hermes* burt og upp til hins háfa *Ólymps.*

*Morgungyðjan,* íklædd sóllauksmöttli, dreifði sèr nú yfir alla jörðina. Þeir *Príamus* keyrðu hestana til borgarinnar með kveini og andvörpum, en múlarnir drógu líkið. Eingi karlmaður og eingin af hinum fagurbeltuðu konum varð þeirra fyrr vör, en *Kassandra;* hún var lík hinni gullprúðu *Afrodítu.* Hún hafði geingið upp á *Pergamsborg,* og gat að líta, hvar faðir hennar og borgarkallarinn stóðu á kerrunni; hún sá og, að líkið lá á líkvagninum, er múlarnir drógu. Hún hljóðaði þá upp yfir sig, og kallaði, svo heyrðist um alla borgina: „Komið, *Trójumenn* og *Trójukonur;* nú munuð þèr sjá mega *Hektor,* ef yður nokkurn tíma hefir þókt vænt um hann, meðan hann lifði, þegar hann kom heim aptur úr bardaga; því hann var gleði borgarinnar og alls fólksins". Svo mælti *Kassandra.* Þá varð eingi maður eptir í borginni, hvorki karl nè kona, því óbærilegur harmur var kominn í alla. Nálægt hliðunum mætti fólkið þeim, er líkið flutti. Kona

*Hektors* og hans heiðvirða móðir þustu að hjólvagninum, og reyttu hár sitt af harmi og lögðu hendur sínar á höfuð honum, en mannfjöldinn stóð í kríng um þær, og kveinaði. Og nú hefði fólkið verið að harma *Hektor* og út ausa tárum fyrir framan borgarhliðin allan þann dag til sólseturs, ef hinn gamli konúngur hefði ekki talað til lýðsins af kerrunni: „Farið úr vegi, svo eg komist áfram með múlana. Þèr getið síðar sadt yður á kveinstöfum, þegar eg hefi ekið líkinu heim“. Svo mælti *Príamus,* en þeir viku úr vegi og gerðu kvíar fyrir líkvagninn. En er þeir *Príamus* komu að höllinni, lögðu þeir *Hektor* á fagurrendan líkbekk, og settu þar saungvara hjá til að byrja harmaljóðin; kirjuðu þeir upp sorglegan saung, en konurnar tóku undir með andvörpum. Hin hvítarmaða *Andrómakka* hóf fyrst upp harmasaunginn meðal kvennanna; hún hèlt um höfuð *Víga-Hektors* með höndum sínum, og kvað: „Maður úngur lèztú líf þitt, og skilur mig nú eptir einstæða í húsunum, en sonur okkar, sem við áttum saman, vesöl hjón, er enn barnúngur, og býst eg ekki við, að hann nái frumvaxta-aldri, því borg þessi mun fyrr verða niður brotin frá grunni; því nú ertú dáinn, forstöðumaðurinn, sem verndaðir hana og varðir hinar heiðvirðu konur og hin úngu börn; munu þær nú bráðum fara burt hèðan á hinum holu skipum, og eg með þeim; en þú, sonur minn, munt annaðhvort fylgjast með mèr, þángað sem þú munt verða að vinna þrælavinnu með þúngri

þraut undir valdi einhvers grimmúðugs húsbónda, eða þá þú hreppir þann dapra dauðdaga, að einhverr af *Akkeum* þrífur í hönd þèr og kastar þèr ofan fyrir borgarvegginn í bræði sinni, í hefnd eptir bróður sinn eða föður eða son, sem *Hektor* kann hafa drepið, því margir *Akkea* hafa þrifið tönnum víðan váng fyrir höndum *Hektors;* því faðir þinn var ósætur viðureignar í orustum, og því harmar fólkið hann um alla borgina. Fagnaðarlausan harm og sorg hefir þú búið foreldrum þínum, *Hektor;* en þó eru mèr eptir skildir sárustu harmarnir, því þú rèttir mèr ekki hendur þínar á banasænginni, og talaðir ekkert huggunarorð til mín, og þó gæti eg altaf munað til þín og grátið þig fögrum tárum nætur og daga". Þannig mælti hún kveinandi, en konurnar tóku undir með andvörpum. Þá byrjaði *Hekaba* þúngar harmatölur meðal þeirra: „*Hektor*, þú mèr ástfólgnasti allra sona minna, sannlega hefir þú verið guðunum kær, alla þá stund sem þú varst á lífi, fyrst hinir ódauðlegu guðir líknuðu þèr í sjálfum dauðanum. Því hina aðra sonu mína seldi hinn fóthvati *Akkilles*, þegar hann handtók þá, mansali handan yfir hið ófrjófa haf, til *Sámseyar* og *Imbreyar* og hinnar torsóktu *Lemneyar*. En er hann hafði tekið þig af lífi með lángeggjuðu eirvopni, þá dró hann þig opt í kríng um haug *Patrókluss*, vinar síns, er þú hafðir drepið, og fèkk þó ekki að heldur vakið hann upp fyrir það. En nú liggur þú glær og nýsæfður í höllinni, líkur

þeim manni, er *Appollon* silfrinbogi hefir drepið sviplega með hinum þýðu skeytum sínum". Þannig mælti hún kveinandi, og vakti upp óaflátlegan harm. *Helena* var sú þriðja, sem því næst hóf upp harmatölur meðal þeirra: „*Hektor,* þú ert mèr ástkærastur allra mága minna. Að vísu er hinn goðumlíki *Alexander,* sem flutti mig híngað til *Trójuborgar,* eiginmaður minn. Eg vildi óska, að eg hefði dáið áður, því þetta er hið tuttugasta ár, síðan eg fór þaðan, og burt úr föðurlandi mínu. Og þó heyrði eg aldrei af þèr nokkurt misjafnt orð til mín eða móðgunaryrði. Því í hvert sinn sem einhverr ámælti mèr innan hallar, annaðhvort einhverr af mágum mínum eða mágkonum, eða einhver af svilkonum mínum, eða teingdamóðir mín (því teingdafaðir minn var mèr ávalt góður, sem hann væri faðir minn), þá tókstu hann ávalt tali og aptraðir honum með ljúfmennsku þinni og blíðskaparorðum. Þess vegna harma eg hann og mig, vesala konu, af sorgfullu hjarta; því nú á eg eingan mann framar góðan mèr eða vinveittan í allri *Trójuborg,* því öllum rís hugur við mèr". Þannig mælti hún kveinandi, en ótölulegur lýður tók undir með andvörpum.

*Príamus* gamli mælti nú til lýðsins: „Flytjið nú, *Trójumenn,* við til borgarinnar, og óttizt ekki fyrirsátur af *Argverjum;* því *Akkilles* lofaði, þegar hann gaf mèr heimleyfi híngað frá hinum svörtu skipum, að hann skyldi eingan óskunda gera, fyrr

en hinn tólfti dagur kæmi“. Svo mælti hann, en þeir beittu uxum og múlum fyrir vagna, og söfnuðust síðan skjótt saman utan borgar. Þeir fluttu í níu daga ógrynni af við; en er hinn tíundi dagur rann upp til að lýsa mönnum, þá báru þeir hinn hugdjarfa *Hektor* út og grètu þá mjög; lögðu þeir lík hans efst á bálið, og skutu í eldi. En er hin árrisula, rósfíngraða *Morgungyðja* kom í ljós, vöknuðu menn hjá báli hins fræga *Hektors*. Þeir slöktu fyrst allan uslann með skæru víni, svo vítt sem eldsmagnið hafði náð; því næst söfnuðu bræður og vinir saman hinum hvítu beinum; grètu þeir, svo fögur tárin hrundu niður eptir kinnunum; tóku þeir upp beinin og lögðu niður í gullskrín, og breiddu þar yfir mjúka purpuradúka, grófu síðan skrínið niður í gryfju, og þöktu ofan gryfjuna með stórum steinum hverjum við annan, þá urpu þeir haug í skyndi, en alla vega umhverfis sátu njósnarmenn, svo hinir fagurbrynhosuðu *Akkear* skyldu ekki fyrr veita árásir, en öllu væri lokið. En er þeir höfðu orpið hauginn, geingu þeir burt, komu svo aptur saman eptir rèttum sið, og sátu að dýrlegri veizlu í höll *Príamuss* konúngs, fóstra *Seifs*. Þannig gerðu þeir útför hins reiðsíma *Hektors*.

# NAFNARÖÐ.

(Rómversku tölurnar, I, og II, tákna fyrri og síðari deild, en hinar tölurnar blaðsíðu í þýðíngunni; s. s. þýðir sama sem).

## Prentvillur.

I. bls. XXI[22] fljotsguðinn fyrir fljótsguðinn.
— 17 ofanmáls er versatalan 377. f. 372.
— 22[9]-[10] skal svo lesa: veit sóma syni mínum, o. s. frv.
— 67[8] Lampas f. Lampus.
— 72[16] nokurr f. nokkurr.
— 84 ofanmáls VI f. IV.
— 142[25] Adrei f. Aldrei.
— 149[23] konu f. kona.
— 170[5] Berjist f. Berjizt.
— 191[10] Menisteifur f. Mekisteifur.
— 248[12] ok f. og.
— 218 er blaðsíðutalið 418 f. 218.

Á 95[27] í I stendur Polýfontes, og svo er það og í handritinu, en í þeim útgáfum, sem vjer höfum haft handa í milli, stendur Lykofontes.

II. bls. 72[9] Eníópisar f. Eríópisar.
— 292[11] Talássonar f. Talajonssonar.

Auk þessara prentvillna ber þess að geta, að hið sama eiginlega nafn hefur eigi ávalt sömu mynd, og eins kemur ósamkvæmni fram á sumum öðrum orðum, en öllu þess konar þótti ísjárvert að breyta, svo að alt yrði sjálfu sjer samkvæmt, og það því heldur, sem höfundurinn mun eigi hafa ætlað sjer að binda hendur sínar í því efni.

## Auglýsíng.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Ilíons-kviða, | fyrri deild . . . . . . | 1 rd. | 12 sk. |
| — — | síðari deild . . . . . . | 1 - | 32 - |

Eins og vèr höfum áður auglýst, höfum vèr í ráði að láta prenta kvæði Drs. S. Egilssonar næst, þegar næst verður byrjað að prenta rit hans, sem ekki getur orðið, fyr en prentun alþíngistíðindanna er lokið, og munum vèr þá láta andlitsmynd höfundarins fylgja þeim.

Útgefendurnir.